# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

17. ÁRG. WINNIPEG, OKTÓBER 1902. NR. 8.

## Sálmr

**eftir hr. Benedikt Þ. Gröndal.**

(Las: Eg heyrði Jesú himneskt orð.)

1. Eg lifi og eg leita þín,
minn ljúfi frelsarinn;
og þér og lífsins ljósinu
ei leynt fær heimrinn.

2. Margt þoku-ský í þessum heim
vill þig oft byrgja mér, —
en ávallt þína ástar-mynd
þó augað trúar sér.

3. Margt heiftarorð vill hneyksla mig
og hrekja burt frá þér, —
en, hjartkær Jesú, heitt eg bið:
ó, haf þú vald á mér.

4. Mörg tungan flá, er talar frítt,
vill tæla frá þér mig, —
en, himinborni hjartans-vin,
eg hlusta' á einan þig.

5. Mörg jarðnesk von og gjálífs-glys
vill ginna mig þér frá, —
en ein er vonin, ein sú hnoss,
er aldrei bregðast má.

6. Mörg hugsan syndar hreyfir sér
í hjarta mínu hljótt,
og syndug flytr tungan tál,
því trúna vantar þrótt.

7. Ó, ljúfi Jesú, leiddu mig
um lífs míns hálu braut,
svo gangi' eg jafnan glaðr, frjáls
í gegn um böl og braut.

8. Þótt allt mitt líf og allt mitt stríð
sé einber veikleikinn,
þá lifi' eg samt og leita þín,
minn ljúfi frelsarinn.

---

# Vísindaleg rannsókn,

## sem styðr ritvissu Mósesbókanna.

,,Sunday School Times" í Philadelphia kom í síðasta mánuði með merkilega ritgjörð eftir dr. H. B. Tristram, kanúka í Durham á Englandi, þar sem fram eru lagðar býsna sterkar sannanir fyrir því, að 5. Mósesbók hljóti, þvert á móti staðhœfingum margra nýju biblíufrœðinganna, að vera fœrð í letr eins snemma og lengst af hefir kennt verið í kirkjunni. Dr. Tristram hefir allra manna bezt rannsakað náttúru landsins helga og annarra landa, sem næst því liggja, einkum að því er snertir dýralífið og jurtalífið þar. Og lengi hefir hann ritað greinir í ,,Sunday School Times" til þess að varpa ljósi þekkingar sinnar í austrlandafrœði yfir lexíukaflana úr biblíunni, sem það blað hefir haft meðferðis.

Í þessari nýju ritgjörð sinni í því blaði segir hann meðal annars þetta:

,,Frœðimaðr einn alkunnr, sem unnið hefir að vísindalegum rannsóknum í Arabíu norðanverðri og landinu helga austanverðu komst svo að orði við mig eitt kvöld, er eg var hjá honum í tjaldi hans þar eystra: 'Þegar eg kom hingað fyrst, hafði eg alls enga trú á biblíunni, og því síðr á því, að hún væri guðinnblásin bók. En það er ómögulegt fyrir neinn mann að starfa hér í landi tvö ár, eins og eg hefi gjört, og bera það, sem þar stendr ritað, saman við mínar eigin athuganir, og gæta að öllum smádráttum og aukaatriðum dag eftir dag, án þess að komast til fullvissu um það, að biblían er sannleikr,—hvert einasta orð hennar.' Eg var sá af vinum þessa manns, sem síðast allra átti nokkurt samtal við hann; því næsta dag að morgni fór hann einn síns liðs niðr í Jórdandalinn, og var þá sjúkr, og að tveim vikum liðnum var hann látinn. Landafrœði og fornfrœði voru vísindagreinir þær, sem hann lagði stund á. En það, sem mest af öllu hafði fyrir hann sönnunargildi, að því er snertir ritvissu 5. Mósesbókar, voru þessi orð í þeirri bók (1, 20): 'Þér eruð komnir til Amóríta-fjalls'.*) Í munni þess manns, sem kominn er að sunnan úr eyðimörkinni og hefir nálgazt suðr-landamæri Palestínu, eru þessi orð í alla staði eðlileg. Það rís upp í sjóndeildarhringnum fyrir slíkum ferðamanni, er hann á þeim stöðvum horfir í norðr, eins og langr fjallgarðr frá austri til vestrs, sem virðist vera samföst heild. En slík sýn er ekki til fyrir neinn, sem nálgast þær stöðvar úr gagnstœðri átt. Landinu smáhallar til suðrs, en hallinn er svo lítill, að maðr, sem kemr að norðan, merkir hann alls ekki. Óhugsanlegt er því, að Móses hafi verið lögð þessi orð í munn af neinum Gyðingi á konungatíðinni, sem að eins myndi hafa hugsað um það svæði eins og það lítr út norðan að — úr föðurlandi sínu. Annað eins orðatiltœki og ,,Amóríta-*fjall*" myndi höfundi þessa sögurits sízt af öllu hafa getað dottið í hug, svo framarlega sem hann hefði uppi verið mörgum öldum eftir að atburðir þeir gjörðust, sem þar er frá sagt."

,,Enn annað: Maðr sá, sem ritað hefir söguna um það,

*) Orð Mósesar til Ísraelsmanna, þá er hann var með þá kominn sunnan frá Sínaí til Kades-Barnea — eftir því, sem frá er skýrt í þeirri bók.

sem bar Móses fyrir augu frá Nebó, gnípu Pisga-fjalls, hlýtr sjálfr að hafa staðið á þeim tindi. Heldr er nú ólíklegt, að spámaðrinn frá Anatót (Jeremía), sem margir af talsmönnum 'hærri kritíkarinnar' eigna 5. bók Mósesar, hafi brugðið sér þangað, einkum þegar eftir því er munað, að héraðið þar út frá, land Móaba og Ammóna, sem verið hafði, var þá í höndum fjandmanna Gyðinga."

,,Þetta eru að eins tveir pennadrættir af mörgum, snertandi landslagið, sem fœra athugulum ferðamanni þar eystra heim sanninn um það, að höfundr 5. Mósesbókar hljóti að hafa verið persónulega nákunnugr svæðinu, þar sem atburðir þeir gjörðust, sem þar er frá sagt. Öðru eins og þessu getr enginn falsritahöfundr náð. Eg minnist þess, er eg var á ferð meðfram strönd Litlu Asíu í samfylgd með manni einum lærðum, er aðhylltist margar nýju kenningarnar í guðfrœðinni, að honum varð það að orði, að Lúkas hefði stórum vaxið í augum sínum fyrir áreiðanlegleik hans, því að enginn, sem ekki hefði sjálfr verið þar, gæti hafa skýrt eins nákvæmlega frá smáatriðum eins og hann gjörir. En alveg eins er því varið að því er snertir Mósesbœkrnar."

Þar næst bendir dr. Tristram á eitt sérstakt atriði í Mósesbókunum, sem hann hefir sjálfr vandlega rannsakað með sinni miklu náttúrusögu-þekking. Það er upptalning hreinna og óhreinna dýra í 11. kapítula 3. Mósesbókar og 14. kapítula 5. Mósesbókar. Að meginmálinu til eru lagaákvæði þau, sem um það efni standa í þeim ritum á þessum tveim stöðum, algjörlega samhljóða. En þó eru á hinum síðarnefnda stað talin upp eigi færri en sjö hrein dýr, sem alls ekki eru nefnd á fyrra staðnum. Í íslenzku biblíunni er sú upptalning svo: hjörtr, hind, hreinn, steingeit, einhyrningr, úruxi, elgsdýr (5. Mós. 14, 5). Í ensku biblíunni, gömlu útleggingunni frá 1611, eru dýr þessi nefnd: the hart, the roebuck, the fallow deer, the wild goat, the pyparg, the wild ox, the chamois; en í endrskoðuðu biblíunni ensku er sumum þessum nöfnum breytt. Í staðinn fyrir ,,roebuck" stendr þar ,,gazelle", ,,roebuck" fyrir ,,fallow deer" og ,,antilope" fyrir ,,wild ox". Nöfnum dýra þessara hefir allt til þessa

hjá oss Íslendingum verið haldið óbreyttum frá því, sem er í Guðbrandsbiblíu (1584). Breyting dýranafnanna í endrbœttu biblíuþýðingunni ensku telr dr. Tristram mjög ófullnœgjandi. Einkum telr hann nöfnin ,,pyparg" og ,,chamois" með öllu ótœk. Hið fyrra sé blátt áfram vitleysa, og hið síðara villanda. Því sú skepna, sem vanalega er á ensku nefnd *chamois*, geti með engu móti verið sú hin sama, sem við er átt á þessum stað í biblíunni. Og jafn-ótœkt er auðvitað íslenzka nafnið ,,elgsdýr" á þeim stað. Öll þau dýr, sem hér er um að rœða, segir dr. Tristram að eigi heima í eyðimörkinni, hinu hrjóstruga landsvæði, sem liggr á milli Rauðahafsins og Kanaans. Að hirtinum einum undanteknum sé óhugsanlegt að nokkurt dýra þessara hafi nokkurn tíma átt heima í Gósen, né neinsstaðar í landeyjunum við Nílárósa, né neinsstaðar í Palestína nema í Júdeu-eyðimörk sunnanverðri.

,,En hvernig stendr á því"—spyr dr. Tristram—,,að dýr þessi eru ekki nefnd í 3. bók Mósesar?" Og svar hans upp á þá spurning er þetta: ,,Það er fyrir þá sök, að á þeim tíma, er lögmálið var út gefið eins og frá því er gengið í þeirri bók, voru að eins fáir mánuðir liðnir frá því þeir höfðu yfirgefið graslétturnar frjósömu í Gósen; og að eins fáar vikur höfðu þeir þá dvalið hjá Sínaí-fjalli, og öll þessi eyðimerkrdýr voru þeim þá ókunn. En eftir að þeir höfðu í þrjátíu og níu ár hafzt við í átthögum dýra þessara hljóta þeir að hafa þekkt þau mæta-vel. Því er í alla staði eðlilegt, að Móses nefni þau í hinni nýju útgáfu lögmáls síns, sem stendr í Devteronomíum."

,,En hefði ekki Hilkía eða Esra eða Jeremía eða einhver ónefndr P eða J getað bœtt þessari dýra-upptalning við (inn í texta 5. Mósesbókar)?—Er hugsanlegt, að nokkur ritari á ofanverðri konungatíðinni gæti hafa skotið inn í lögmálstextann dýrum þeim, sem Gyðingar þeirrar tíðar í mesta lagi þekktu eitthvað til af sögusögn, ef þau annars ekki voru þeim með öllu ókunn? Það var alls ekkert átt við náttúrufrœðis-rannsóknir meðal Gyðinga um þær mundir, né heldr lögðu þeir þá stund á íhugan náttúrunnar. Ef þeir á annað borð ferðuðust

nokkuð á þeirri tíð út fyrir Sýrland, það var þá annað hvort til Egyptalands eða Assyríu, en leið þeirra til hvorugs þess lands lá í gegn um eyðimörkina. Að eins í eitt skifti er þess getið, að maðr úr Gyðingalandi hafi lagt leið sína til Sínaí-eyðimerkr. Það var þegar Elías fór þangað. Þegar menn ferðuðust til Egyptalands, lá leið þeirra um byggð og ræktuð héruð, fram hjá Gaza og Sóar. Leiðin til Babýlonar lá um hinar frjósömu sveitir í Mesopotamíu og Tígrisárdalnum. Og víst er um það, að ekkert af dýrum þessum gæti Esra hafa hitt, þá er hann kom með sinn Gyðingahóp að austan til Jerúsalem. Vér vitum, hvar Jeremía lét fyrir berast, og naumast getr hann hafa séð neitt af þessum dýrum, nema ef til vill steingeitina.“

Nafnaskrá dýranna, sem hér er um að ræða, virðist að eins hafa getað orðið til á þeim tíma og stað, sem frá segir í 5. Mósesbók — rétt áðr en Ísraelsmenn komust inn í fyrirheitna landið, og fyrir austan Jórdan.

# Hin „hærri kritík“.

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

## II.

Að menn hafi rétt til þess að rannsaka biblíuna eins og hverja aðra bók hljótum vér að játa. Þótt vér vildum leyna henni fyrir „rannsóknarréttinum“, gætum vér það ekki. Biblían liggr opin fyrir öllum mönnum, og hverjum manni er frjálst að kveða upp yfir henni dóm. En sökum þess hún liggr þannig opin fyrir öllum mönnum, af öllum flokkum og með allskonar hugsunarhætti, verða dómarnir margir ranglátir. Þeir verða margir, sem dæma án þess þeir beri nokkra virðing fyrir hinni helgu bók, margir, sem rangfæra og hártoga, margir, sem tæta í sundr af hégómagirni, halda því fram, sem þeim finnst bezt muni sýna hugsunarafl þeirra sjálfra. Að þetta skuli vera svo er slæmt, en þó óhjákvæmilegt, í heimi þessum hinum ófullkomna og syndspillta, þar sem jafnvel hið helgasta er af sumum troðið niðr í saur-

inn. Biblían verðr því að sæta sömu kjörum og allt annað. Jafnvel hún verðr að þola mótmæli og háð. Sannleikrinn þarf ekki að vera hræddr við rannsókn, þrátt fyrir það þótt oft hafi það komið fyrir, á sérstökum tímabilum, að hann hafi verið bœldr niðr. En yfir höfuð má segja, að því ítarlegri sem rannsóknin er, því minni hætta er sannleikanum búin; og það eitt er víst, að sannleikrinn ber sigr úr býtum að síðustu. Fyrir framtíðina höfum vér því ekkert að hræðast frá „hærri kritíkinni"; en fyrir þetta tímabil, sem stendr yfir, getr vel verið hætta, sú nefnilega, að menn aðhyllist lygi, vegna þess hún virðist helzt vera ofan á nú sem stendr. Vér verðum allir að vara oss á því að „laga oss eftir öld þessari". Því, sem í dag þykist standa sem sannleikr, verðr á morgun ef til vill kastað í ofn sem lygi.

Þrátt fyrir allt þetta getum vér ekki lagt fram bann gegn nokkrum manni, sem vill rannsaka. Andi mannsins hlýtr ætíð að vera frjáls. Frjálsræðið er mannsins eign frá upphafi, sú gjöf frá drottni, sem aldrei verðr tekin burtu. Guð vildi heldr láta mannkynið allt falla í synd en taka þessa gjöf frá því. Það, sem guð ekki gjörði í fyrstu, það megum vér ekki gjöra nú, þó vér sjáum, að einmitt fyrir þetta frjálsræði falla margir í villu.

Svo megum vér ekki gleyma því, að drottinn stendr á bak við rás viðburðanna í heiminum á þann hátt, að hann framleiðir gott jafnvel af hinu illa. Í hans hendi verðr „hærri kritíkin" eflaust til þess að leiða í ljós einhver sannindi, sem áðr voru hulin eða fram hjá var gengið.

Ekki verðr því heldr neitað, að í sambandi við biblíuna er margt, sem nauðsynlegt er að rannsaka, margt, sem þarf að skýrast, margt, sem hinn óþreytandi mannsandi getr réttilega glímt við. En að þetta sé unnið nær því eingöngu af mönnum hinnar „hærri kritíkar" eins og haldið er fram af þeim, sem hafa mælt með þeirri stefnu í riti á íslenzku, það er algjörlega rangt.

Þetta nafn — „hærri kritík" — er stundum, nú orðið, viðhaft í allt annarri merking en gjört hefir verið hér að framan í ritgjörð þessari. Vér höfum hér viðhaft það orð til þess

að lýsa þeirri stefnu, sem séra Jón Helgason hefir framfylgt í ritgjörðum sínum um gamla testamentið í Tímariti Bókmenntafélagsins og séra Friðrik J. Bergmann í fyrirlestri sínum ,,Bókstafrinn og andinn" í Aldamótum. Í þeim ritgjörðum hefir gömlu skoðaninni á innblæstri biblíunnar verið andœft. Það, sem þessir menn hafa sagt, er auðvitað ekki uppgötvað af þeim sjálfum, heldr framsetja þeir að eins það, sem þeir hafa numið af öðrum og fjölmargir menntaðir guðfrœðingar í Norðrálfunni og Ameríku aðhyllast. En það eru til aðrir guðfrœðingar og önnur niðrstaða á rannókninni, niðrstaða, sem eindregið mælir með biblíunni í þeirri mynd, sem oss hefir verið kærast að hugsa oss hana í liðinni tíð. Öll rannsóknin er stundum nefnd ,,hærri kritík". Hlutverk hinnar ,,hærri kritíkar" í þeirri merking er það aðallega að rannsaka, hverjir sé hinir réttu höfundar bókanna í biblíunni og hve nær þær hafi verið í letr fœrðar. Til þess að vinna það verk verðr að athuga nákvæmlega rithátt og orðfœri höfundanna, sögu þjóðarinnar, landslag það, sem henni var kunnugast, dýralífið og jurtalífið á þeim stöðvum, þar sem hún dvaldi, siðvenjur þjóðarinnar og margt fleira. Saga og bókmenntir annarra þjóða, sem koma við sögu Gyðinga, verða einnig í þessu tilliti hjálplegar. Þetta allt er verið að vinna, og þetta allt er stundum nefnt ,,hærri kritík". En ef menn ímynda sér, að þetta verk sé að eins unnið af mönnum með stefnu þeirri, sem séra Jón Helgason fylgir, þá er það hrapallegr misskilningr. Stórir hópar slíkra rannsakenda, í fremstu röð guðfrœðinga Ameríku og Norðrálfunnar, mæla í öllum aðalatriðum eindregið með gömlu skoðaninni á biblíunni. Það eru t. d. fullt eins miklir vísindamenn, sem halda því fram, að Mósesbœkrnar sé að mestu leyti eftir einn höfund, Móses, eins og hinir, sem neita því; og hinir fyrrnefndu bera fyrir sig fullt eins vísindalegar ástœður eins og hinir síðarnefndu. Sannleikrinn er sá, eins og þegar hefir verið drepið á í upphafsþætti ritgjörðar þessarar, að meginatriðið í hinni ,,hærri kritík" Mósesbókanna, svo vér viðhöfum orðið í hinni vanalegu merking þess, er fremr óvísindalegt. Að taka annað eins ritverk og hinar fimm bœkr Mósesar, er fœrðar hafa verið í letr að

minnsta kosti ekki seinna, eftir því, sem talsmenn hinnar ,,hærri kritíkar" sjálfrar halda fram, en á tíð Esra, eða fyrir svo sem 2,350 árum, ritverk, sem allar þessar aldir síðan hafa eignað Móses að mestu leyti, og nú eftir allan þennan tíma að lesa það sundr í að minnsta kosti fjögur sérstök rit, eftir fjóra höfunda, hvern öðrum ólíkan, —til þess þarf sannarlega meira en lítið áræði. Vér höfum það nú fyrir satt, að Mósesbœkrnar sé eldri en séra Jón Helgason heldr fram. En setjum svo, að hann fari þar með rétt mál. Samkvæmt því liggja þá Mósesbœkrnar opnar fyrir öllum mönnum í meir en 2,300 ár, og enginn sér þar annað en verk eins höfundar og enginn veit um neitt annað. En þá kemr andi vísindanna yfir Wellhausen, árið 1878, og hann sér þá allt í einu fjóra höfunda, ekki hvern út af fyrir sig í einu lagi í bókunum, heldr þannig saman fléttaða, að oft þarf að skifta kapítulum og jafnvel versum til þess að greina höfundana hvern frá öðrum. Og þetta verk, svona stórkostlegt, leysti hann af hendi, ekki fyrir þá sök að hann hefði fundið neinar bókmenntalegar menjar frá fornöldinni, sem benti til þess, heldr aðallega sökum þess, að sumsstaðar í ritinu er við haft orðið *Jehóva* til þess að tákna guð, en sumsstaðar *Elóhím*. Þarna er grundvöllr ,,hærri kritíkarinnar".

Hugsum oss einhverja bók, sem er rituð um þessi aldamót, og hugsum oss svo, að um næstu 2,300 ár verði hún ávallt talin ritverk eins manns ; en þá allt í einu eftir þann afar langa tíma rísi upp maðr einn, sem segir : ,,Þessi bók er ekki eftir einn höfund ; hún er eftir fjóra, vegna þess að sumsstaðar er viðhaft orðið *spekingr*, en annarsstaðar *vitringr*, og svo eru kaflar, sem hljóta að vera eftir þriðja og fjórða höfundinn, af því þar er ólíkr rith// háttr. Þetta er aðferð ,,hærri kritíkarinnar"; og svo er talið sjálfsagt, að allir menntaðir menn fallist á þetta fyrir þá sök, að það sé vísindi; því enginn má gjöra sig sekan í þeim stóra glœp að vera á móti neinu því, sem vísindin segja. En vér hljótum að segja: Þetta eru engin vísindi. Þessar staðhœfingar eru svo óeðlilegar og undirstaða þeirra svo undr veik, að vér hljótum að hafna þeim þangað til vér fáum betri sannanir.

# Söngrinn í sunnudagsskólum.

Eftir hr. Jóhannes S. Björnsson.

Lesið á sd.skóla-þingi að Garðar, N.-D., 27. Júní 1902.

Shakespeare segir, að sá, sem hinir yndislegu samsöngvar bifi ekki í hugskoti, sé vís til aðhafast landráð og annað ódæði.

,,Eg hefi ætíð haft óbeit á þeim, sem fyrirlíta söng; því sönglistin er frá guði, en ekki mönnum; hún fælir burt óvin sálna vorra og skapar frið hið innra hjá manninum, kemr oss til að gleyma hatri, gjörir oss miskunnsamari, nemr burt hjartans harðýðgi og aðra lesti. Næst guðfræði ber eg mesta virðing fyrir sönglistinni. Vér sjáum, hve Davíð og aðrir helgir menn ritningarinnar íklæddu fögr orð og fagrar hugsanir í fagran búning sönglistarinnar; því friðr og *músík* eru samfara.''

Þetta eru orð Lúters; og hafa þau ávallt síðan verið skoðuð sem grundvallarsannindi um allan hinn menntaða heim. Og eg vil benda á í þessu sambandi — áðr en eg fer lengra —, að oss er skylt að kannast við sálm Lúters *Ein feste Burg* (Vor guð er borg á bjargi traust) sem þann sálm, er þýði eins mikið fyrir kirkju vora eins og *America* eða *God save the king* o.s.frv. þýða fyrir löndin og þjóðirnar.

Enginn nema sá, sem hefir hugsað alvarlega út í það mál, getr skilið, hvað slíkr hersöngr þýðir fyrir hjörtu æskulýðsins.

(1) Sönglistin huggar hið sorgmœdda hugarfar. Það er sagt um þýzkt tónskáld eitt, að þegar kona hans andaðist, hafi hann varla vikið frá hljóðfœri sínu, og sökkt sér í að semja ný söngrit; og seinast var hjarta hans orðið svo fullt af gleði, að hann hrópaði: ,,Eg vil láta konuna mína heyra þetta, tafarlaust.'' Forstöðumaðr munaðarleysingjastofnunar nokkurrar segir, að ekkert hafi af fyrir hinum sorgmœddu aumingja-börnum eins og góð *músík*. Þegar farið er að syngja, breytist andlits-yfirbragð barnanna, og fyrir þann, sem rétt skilr eðli söngrins, er það svo útlagt, að guðleg dýrð skíni í sálir

þeirra. Söngrinn er því móðurmál hinna sorgmœddu, eins og skáldið segir:

,,Þá sönglist eg heyri og svanfögr ljóð,
mér sorgirnar renna frá hjarta."

(2) Sönglistin endrfœðir manninn,—yfirvinnr hinar dýrslegu tilfinningar hans. Hinn rangláti og ofsafulli Sál, stilltr af hörpu Davíðs, er skýrt dœmi upp á þetta.

(3) Sönglistin upplýsir. Börnunum þykir vænt um að læra sálma utan að, sem þau finna að þýða meira þegar þeir eru sungnir, heldr en þegar þeir eru lesnir. ,,Messiah", hið yndisfagra söngverk Händels, sungið í Lundúnum af þúsundum, var meir upplýsandi söngr en heyrzt hefir um langan aldr. Grikkir og Rómverjar í fornöld tilbjuggu sönglög við spakmæli sín — þau, er þeim þótti einna mest í varið. Lúterska kirkjan hefir fengið í arf frá Þýzkalandi mjög mikið af *didaktiskum* ljóðum, sem margir hallmæla sem sálmum. Lúter er höfundr margra þeirra. En að eins þeir mótmæla þessu, sem ekki þekkja tilgang söngs. Margr maðrinn kann lítið annað utan að en nokkur sálmvers; — það er allt og sumt guðfrœðislegt, sem þeir hugsa um, ef til vill. Hví skyldi þá ekki vanda orðavalið, sem hinir fögru söngtónar eru íklæddir? Vaninn gjörir það líka, að sum orð verða óaðskiljanleg sérstöku söngiagi. Þannig dettr fæstum annað í hug en að syngja *Rock of Ages* með laginu ,,*Toplady*", *Abide with me* með ,,*Eventide*", o. s. frv.; ,,Í fornöld á jörðu" með sínu lagi, ,,Allt eins og blómstrið eina" með sínu lagi. Höfundr einn segir: ,,Þegar sönglistin er sem fegrst í eyrum mér, streymir sannleikrinn sem óhindraðastr inn í hjarta mitt og hugskot." Enn fremr: — sönglistin er gömul. Vér höfum alla ástœðu til að halda, að þegar undir eins í aldingarðinum Eden hafi fyrstu foreldrar vorir sungið lof og dýrð skaparans. Eden táknar sælustað, en hvergi er alfullkominn sælustaðr þar sem ekki er söngr. Forfeðr Ísraelslýðs hafa mjög líklega iðkað hina sömu list. Abraham hefir eflaust lært listina eins og hún tíðkaðist í Kaldeu; og Jakob hefir lært hana hjá Laban. Þegar hann (Jakob) fer á laun burt frá honum með allt sitt, nær Laban honum og segir við hann: ,,Hví

flýðir þú svo leynilega og straukst á burt frá mér og lézt mig ekki vita, að eg hefði getað fylgt þér á veg með fögnuði og söng, með bumbum og básúnum?" (1. Mós. 31, 27). Þá er Ísraelsmenn voru komnir yfir Rauðahafið, eftir að drottinn hafði frelsað þá með því að láta vötnin falla saman og svelgja í sig lið faraós, tóku óteljandi munnar undir hinn dýrðlega lofsöng Mósesar. Í Jobsbók er hin fyrsta lýsing á söng í biblíunni. Það var samsöngr til að lofsyngja Jehóva, drottni herskaranna, og víðfrægja sköpun alheimsins. Hið mikla musteri var einnig vígt með dýrðlegum söng; og svo er öðru hverju dvalið við fegrð söngsins — svo að nálega verðr óslitinn söngstraumr — þar til í Opinberunarbókinni að hann virðist flóa inn í krystallshafið, þar sem standa harpslagar, leikandi á hörpur sínar og syngjandi söng Mósesar, þjóns guðs, og lambsins.

Eftir að hafa gjört oss grein fyrir, hve óendanlega dýrðleg sönglistin er, skulum vér nú athuga afstöðu hennar við sunnudagsskólakennslu. Vér segjum: Nœgum tíma verðr að verja til söngs. Sunnudagsskólinn er guðsþjónusta barnanna; — og til þess að hún sé það í anda og sannleika, — sé forsmekkr fullorðinna manna guðsþjónustu, sem aftr á að vera forsmekkr guðsþjónustunnar frammi fyrir hásæti lambsins, — verðr söngr að skipa þar öndvegi. Eins og Hómer, Dante, Virgill, Goethe, Shakespeare og Milton eru heimsins beztu skáld — og ætti öðrum fremr að vera lesnir, eins eru þeir Bach, Mendelsohn, Beethoven, Mozart, Chopin, Schubert og fleiri heimsins ódauðlegu tónskáld; og það borgar sig alveg eins illa að iðka „karakter"-lausa músík eins og „karakter"-lausar bókmenntir.

Sálmar eru mest áríðandi. Samkvæmt sunnudagsskólaformi voru eru þrír sálmar fyrirskipaðir. En mér hefir æfinlega fundizt það of lítið. — Hví ekki fjórir? En það er vandi að velja lög úr bók Jónasar Helgasonar, því sum eru afar ervið og alls eigi fyrir börn að syngja — t. d.: „Hve sælt hvert hús" (sb. 292), „Guð, Jehóva, þig göfgum vér" (sb. 46). Hve mikill munr á „Eg heyrði Jesú himneskt orð" (sb. 131), „Inndælan, blíðan" (sb. 562), eða „Ó þá náð að eiga

Jesúm" (sb. 198). Allir ætti að standa, bæði kennarar og nemendr, þegar sálmarnir eru sungnir. Og það ætti að vera hlutverk forstöðumanns að brýna fyrir börnunum að syngja af hjarta. Vér höfum í eigu vorri Barnasálma séra Valdemars Briem, og úr þeim ættum vér að syngja, þegar oss þykir við eiga; því óvíða eru barnslegar hugsanir um guðlega hluti klæddar í eins eðlileg barnaorð eins og þar. Þar sem prestr safnaðarins eða forstöðumaðr eru söngmenn, ætti hin eldri börn — fjögur, sex, átta eða fleiri — að mynda sérstakan flokk, sem ætti, auðvitað, að samanstanda af beztu söngkröftum, og ætti flokkr sá að œfa sig í sérstökum lögum og syngja þau fyrir skólanum, þegar hann er búinn að læra þau vel. — Vér eigum dýrðlega fésjóðu, sem sjaldan eru sungnir í sunnudagsskólum: Davíðs sálma séra Valdemars og marga aðra yndislega sálma eftir hann, séra Mattías Jokkumsson, séra Lárus Halldórsson, séra Steindór Briem og aðra, sem einatt koma öðru hverju í kirkjuritum vorum. Látum ekki gimsteina þá falla í gleymsku. Gjörum heldr einhverri hungraðri sál hið tæra guðs orð þeirra minnisstœtt með því að syngja það.

Eigi má heldr gleyma hinum fegrstu ensku sálmum í ágætum þýðingum á vorri tungu, svo sem „Lead, kindly Light" eftir Newman (Skín, ljósið náðar—þýtt af Jóni Runólfssyni), „Jesus, Lover of my Soul" („Þú, sem önd mín er svo kær"*) — þýtt af J. R.), „Nearer, my God, to Thee" (Hærra, minn guð, til þín — Matt. Jokk.), „Rock of Ages" (Hellubjarg og borgin mín — Matt. Jokk.).

En það er fleira en sálmar, sem á að syngja. Lúterska kirkjan hefir fengið í arf mjög mikið af dýrðlegri *lítúrgíu*, þ.e.: guðsþjónustuformum; og þótt meðalhófið í þessu efni þyki vandratað, ber þó víst flestum saman um, að það sé skylda hennar að varðveita allt það af því, sem gott er, einnig í sunnudagsskólunum. Í sunnudagsskólaformi voru höfum vér *Gloria patri* (Dýrð sé guði föður, o.s.frv.) Látum oss varðveita það. Við jólahátíðina ætti börnin að syngja hinn

*) Í „Kennaranum" III, 2. En fyrsta orði sálmsins þar — „Þér" — verðr að breyta í „Þú".

gullfagra „Hymnus Angelicus" *Gloria in excelsis* (Dýrð sé guði í upphæðum), sem æ hefir verið sunginn síðan á 2. öld e. Kr. *Kyrie* (Drottinn, miskunna þú oss) er einnig mjög fagrt. *Nunc dimittis* (Nú lætr þú, drottinn, þjón þinn í friði fara — Lúk. 2, 29), *Magnificat* (Önd mín lofar drottin—Lúk. 1, 46) og *Benedictus* (Lofaðr sé drottinn — Lúk. 1, 68) eru þrír lofsöngvar úr biblíunni. Þeir ætti að syngjast með orðum ritningarinnar. En ef vandkvæði eru á því, má í þeirra stað syngja vers eftir séra Valdemar, orkt út af þeim, sem birzt hafa í „Kennaranum" (II, 2) með lögum úr bók Jónasar Helgasonar.

Með því vér vitum, að með framför söngs kemr framför sannrar guðsdýrkunar, þá er eðlilegt, að vér hvetjum hver annan með orðum postulans (Kól. 3, 16): „Látið Krists orð búa ríkulega hjá yðr, svo að þér með allri speki kennið hver öðrum og áminnið hver annan með sálmum, söngum og andlegum lofkvæðum, sœtlega syngjandi drottni lof í yðrum hjörtum."

# Kirkjuvígslusálmar

**hr. Magnúsar Einarssonar,**

sungnir við vígslu Mikleyjar-kirkju 14. Sept. síðastl.
(„Sam." XVII, 7, bls. 110).

## I.

(Lag: Kær Jesú Kristi.)

1. Krists kæru vinir!
—hver með öðrum nú
syngjum guðs syni
sœtt af hug og trú
lof og þakkir þýðar
þessa' um helgu stund.
Njótum náðartíðar
nú í helgum lund.
Drottni hús hér helga skal
hirðir fús með lofsöngstal.
Þinn, Jesús, í þessum sal
þráum gleðifund.

2. Gnótt œðstu gœða
guð þér streymir frá.
Dýrð himnahæða
hús þitt bendir á;
þaðan þráfaldlega
þögul fegrð skín.
Eyða öllum trega
elskumerkin þín.
Virzt þú mál vort meðtaka.
Mælskuprjáli frá vísa.
Þú vorn sálusorgara
sjálfr dyggðum krýn.

3. Guðs góði andi,
glœð þú vora trú.
Þig þrábiðjandi
þannig kvökum nú:
Blessa, blíði faðir,
brúði frelsarans.
Þráin líka það er
þýð í brjósti manns:
að vor dafni dáðin hrein.
Dyggðir safnist hverri' í grein.
Jesú-nafnið mýki mein
mœdda syndarans.

## II.

(Lag: „Tunga mín" eða „Sá krossf.")

1. Sálarhagr héraðsbúa
hefir fengið umbreyting.
Mikinn, vér því megum trúa,
má það telja ávinning.
Sigr er unninn, sól upp runnin.
Sálir fá hér áminning.

2. Blessuð náðin hjálpað hefir
hjartna vorra eftirþrá.
Mátt og vilja mjög oft gefr,
mönnum þegar liggr á.
Vér því gladdir við hér staddir
viljum lof og þakkir tjá.

3. Oss það gleðji, góðir brœðr,
guðs að nú er húsið vígt.
Fagni börnin, feðr og mœðr,
fágæft því að yndi' er slíkt.
Allt hér fáum œðst hvað þráum;
ó, hvað það er gleðiríkt.

4. Nú á helgri náðarstundu
notum það, sem oss er kennt.
Orðið guðs er meginmundr,
meðfram háleitt sakrament.
, þau gæði! ó, það fœði!
oss í náðar skyni sent.

5. Vinr kær, þótt kröftum tapir,
kné þín beyg með helgri lyst.
Gakk hér inn með góðu skapi;
geð þitt má ei vera tvist.
Hver sem grætr hér kann mœta
huggun fyrir Jesúm Krist.

6. Ó, þú faðir engla' og manna,
einka-traust og vonin mín,
ódauðleikans sólin sanna,
sem á jörð og himni skín,
virzt að blessa bygging þessa.
Bœnheyr það af miskunn þín.



Guðfrœðiskandídat Pétr Hjálmsson, er kirkjufélagið réð til sín á síðasta ársþingi sem missíónera, hefir fram að 7. Október haft aðsetr í Þingvallanýlendu-söfnuði og Konkordía-söfnuði í Assiniboia og starfað þar að kristindómsmálum. Að þriðjungi hefir hann þjónað hinum síðarnefnda af þessum söfnuðum, en að tveim þriðjungum hinum fyrrnefnda. Fjögur ungmenni í Konkordía-söfn. bjó hann undir ferming. Tvö börn í Þingv.nýl.-s. skírði hann. Flesta sunnudaga kenndi hann í sunnudagsskóla, að prédikunarguðsþjónustum loknum; og flesta laugardaga hélt hann einnig skóla.

Hann ber þessum söfnuðum hinn bezta vitnisburð, segir, að fólk þar láti sér almennt mjög hugarhaldið um sunnudagsskóla og kristilega barna-uppfrœðslu, og telr allar líkur fyrir því, að söfnuðirnir verði með sterkustu hlekkjum í kirkjufélaginu, þegar fram líða stundir. Samfara kristindómsnámi unglinga þar segir hann að foreldrar leggi mikla stund á það, að börnin verði vel að sér í móðurmáli sínu—íslenzkunni.

Að áliðnum Septembermánuði fór hr. Pétr snöggva ferð úr Þingvallanýlendu suðr til Vatnsdalsbyggðar (við Qu'Appelleána), prédikaði þar og skírði fjögur börn. Íslendingabyggðirnar eru þar tvær með 8 til 10 mílna millibili. Nyrðri byggðin (Dongola) er alveg nýmynduð með 16 eða 17 land-

nemum. Og telr hann líklegt, að þeir stofni söfnuð bráðum. Syðri byggðin (Tantallon) á dalbrúninni er miklu eldri, enda blómleg mjög. Einnig þar býst hann við safnaðarmyndan áðr en langt líðr.

Hr. Pétr Hjálmsson er nú kominn vestr í hina íslenzku byggð í Alberta og setztr þar að, til þess að starfa að kristindómsmálum fyrir söfnuðinn þar, að minnsta kosti fram að nýári. Hann lagði á stað þangað frá Winnipeg 13. Okt.

---

Ritgjörð á ensku eftir séra Friðrik J. Bergmann um tíðareglur íslenzku kirkjunnar (The Liturgy of the Icelandic Church) er nýlega komin út á prent í ,,Memoirs of the Lutheran Liturgical Association", Pittsburg, Pa. (Vol. IV, No. 9, bls. 95—109). Ritgjörðin er í sex þáttum, en efnið í þeim þáttum er þetta : 1, fyrirkomulag guðsþjónustunnar í kaþólskri tíð; 2, saga siðaskiftanna á Íslandi; 3, guðsþjónustugjörðin á reformazíónar-tíðinni; 4, tímabilið frá 1685 til 1801; 5, fyrirkomulag guðsþjónustunnar eins og það hefir síðan verið; 6, væntanleg endrbót á tíðareglunum. —Ritgjörðin hefir talsvert mikilsverðan kirkjusögulegan fróðleik inni að halda.

---

## Gjafir í skólasjóð kirkjufélagsins.

Frá Garðar: Albert Samúelsson og Kristinn Ólafsson, $10 hvor; Sigurðr Sigurðsson, Kr. Samúelsson og Stefán Breiðfjörð, $5 hver; Júlíus Björnsson, $2; Davíð Jónsson, Jón Sigmar Jónsson og Tryggvi Kristjánsson, $1 hver. Frá Edinburg: Elín Thorlacíus, $10; H. Hermann og Áskell Bergmann, $5 hvor; Hjálmar Hermann, $1. Frá Milton: Pétr Jónsson, Snæbjörn S. Grímsson og Kristín Guðmundsson, $5 hvert; Ragnheiðr Gíslason og Jón Guðmundsson, $3 hvort; Halldór Ásgrímsson, $2.50; Árni J. Snædal, $2; Mrs. Guðrún Finnsson og Mrs. Hermannía Snædal, $1 hvor. Frá Mountain: Jón Gíslason Dalmann, $15; Tómas Halldórsson og Jakob Eyford, $5 hvor; Sigurðr Kristjánsson, $3; Halldór Reykjalín, $2; Jóhann Gestsson, $1; og Jón Þórðarson, Esmond, $1.— Alls $120.50.

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhirðir ,,Sameiningarinnar".

---



---

,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn" fylgir með ,,Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri ,,Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1: greiðist fyrirfram.—Skrifstofa ,,Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada,— Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B. Jónsson, N. Steingrímr Þorláksson.

Prentsmiðja Lögber[illegible] ipeg.